# VESTUR CANADA

MANITOBA
SASKATCHEWAN
ALBERTA

**Bezta kornyrkju og kvikfjárræktarland heimsins**

**FRAMTÍÐARLAND ÍSLENDINGA**

FRÓÐLEG OG SKEMTILEG BRÉF
FRÁ ÍSLENZKUM NÝBYGGJUM.

Gefið út að tilhlutun Canada-stjórnar. Til útbýtingar
Á ekki að seljast.

1907



FYRSTA LÚTERSKA KIRKJA
Íslendinga í Winnipeg.

1905
'06.



# VESTUR-CANADA.

Þótt réttilega megi með nafninu Vestur-Canada tákna fylkin fjögur, Manitoba, Saskatchewan, Alberta og British Columbia, og víðáttumikla norðvesturlandið alt norðan fylkjanna, þá hefir það náð hefð að tákna með nafni því einungis Manitoba, Saskatchewan og Alberta fylkin. Í bækling þessum er því við þessi þrjú fylki átt með nafninu Vestur-Canada.

## Loftslag.

Vegna vetrarfrostanna í Vestur-Canada, sem svo miklar sögur hafa af farið, álíta margir, að þar sé lítt lifandi á vetrum vegna kuldans. En því fer fjarri, að svo sé. Vegna loftþurksins eru frostin ekki nálægt því jafn tilfinnanleg eins og við sjávarsíðuna, þar sem loftið er rakameira. Snjókomur á vetrum eru minni heldur en í austur-fylkjunum, en vetrarblotar eru sjaldgæfir og staðviðri mikil. Snjórinn skýlir því ökrunum allan veturinn, sem meðal annars á þátt í hinni óviðjafnanlegu frjósemi jarðarinnar á sumrum. Sleðafæri er af sömu ástæðu einkar gott og er slíkt ósegjanlega mikils virði fyrir bóndann, en ekki sízt fyrir þá, sem skógarhögg stunda. Sem dæmi þess hvað óhæfilega mikið er úr vetrarhörkunum gert, má geta þess, að víða í Vestur-

Canada er geldneytum gefið út og þau aldrei hýst allan veturinn.

Með April komu er talið að vorið byrji, er þá venjulegast alauð jörð og lauf tekin að springa út á trjánum. Byrjar þá óðar sáning í akrana, sem plægðir hafa verið haustið áður. Um og eftir miðjan Maímánuð er sáning lokið og byrja þá bændur að færa út akra sína, plægja akurblettina, sem hvíldir hafa verið, girða akra og beitilönd, bæta húsakynni o. s. frv. Heyannir byrja um og eftir 20. Júlí og uppskera rúmum mánuði síðar.

Í lok Maímánaðar er talið að sumarið byrji fyrir alvöru, en haustið með byrjun Septembermánaðar. Þótt sólskinsríkir dagar séu og staðviðri í Vestur-Canada á sumrum þá eru hitar alls ekki tilfinnanlegir nema sárfáa daga á sumrinu og nætur svalar og hressandi eftir hita og þunga dagsins. Dýrðlegast allra árstíðanna er haustið í Vestur-Canada, hlýindi og þerrir dag eftir dag þangað til haustönnum er lokið og alltítt, að vetur ekki gangi í garð fyr en um 20. Nóvember, og stundum ekki fyr en um jól.

---

## Stjórnarfyrirkomulag.

Hvergi er stjórnarskipun hagkvæmari eða frjálsari en í Vestur-Canada. Bandaríkjunum er viðbrugðið fyrir stjórnfrelsi, en það er öðru nær en Bandaríkjamenn, sem tugum þúsunda saman hafa sezt að í Vestur-Canada, þykist í því efni eiga neins að sakna. Réttindi einstaklingsins eru viðurkend og allir metnir eftir eigin verðleikum — ráðvendni, atorku, félagslyndi o. s. frv. Sérstaka áherzlu leggur stjórnin á það að hlynna

að bændunum og greiða veg þeirra, ekki einasta með því að veita gefins ábúðarlönd, heldur eru stjórnardeildir (akuryrkjumáladeildir) bæði í sambandsstjórninni og fylkjastjórnunum, sem hafa á hendi eftirlit með bændum. Eru í því skyni sett hér og þar á fót fyrirmyndarbú og búnaðarskólar á kostnað stjórnanna; beztu sáðtegundir sendar út á meðal bænda; búnaðarfélög styrkt og uppbyggilegir fyrirlestrar haldnir um bætta búnaðaraðferð, búnaðarrit útbreidd o. s. frv. Við griparækt og smjör og ostagerð veitir stjórnin samskonar mikilsverða hjálp og leiðbeiningar. Alt þetta flýtir ósegjanlega mikið fyrir því, að koma búskapnum í blómlegt ástand og gera hann að arðsamri atvinnugrein.

---

## Mentamál.

Með eftirlit mentamálanna stendur Vestur-Canada engum öðrum hluta landsins á baki. Þegar börnin eru 5 til 6 ára eiga þau aðgang að fríiskólunum, sem nú eru óðum að verða svo fullkomnir, að ekki einasta geta ungmennin lært það, sem venujlega er á barnaskólum kent, heldur ókeypis búið sig undir inntökupróf í College, læknaskóla, kennaraskóla og til lögfræðisnáms. Fylkjunum er skift niður í hæfilega stór skólahéruð og greiða bændur innan skólahéraðanna ákveðið skólagjald, en til þess skólagjaldið ekki verði bændum tilfinnanleg byrði leggja fylkisstjórnirnar ríflega fé til skólanna.

Stjórnirnar líta nákvæmlega eftir því, að engir kenni í barnaskólunum, sem ekki eru kenslu vel vaxnir og hafa leyst ákveðið próf af hendi. Fjöldamargir Ís-

lendingar, bæði karlar og konur, hafa hér á hendi barnakenslu í Vestur-Canada, ekki einasta innan Íslendingabygðanna, heldur í bygðum enskumælandi manna, í Winnipeg, Selkirk og fleiri bæjum.



Höfnin á Gimli.



Gimli-bær.



# MANITOBA.

Stærð Manitoba-fylkis er 65,000 fermílur; það er elzta fylkið, en lang-minsta þeirra þriggja, sem hér er um að ræða. Íbúatala fylkisins er nú talin að vera um 450,000. Af yrkilegu landi eru 27 miljón ekrur í Manitoba, en ekki nema rúmlega sjötti hluti þeirra plægt land. Mikið vantar því á, að Manitoba-fylki sé fullbygt eða hafi séð sitt fegursta. Mikið af landi, sem ýms félög og einstaklingar eiga, liggur ónotað, og nálægt því 1,500,000 ekrur af ónumdu heimilisréttarlandi. Land þetta alt væri nú bygt, ef ekki hefðu nýju fylkin, Saskatchewan og Alberta, heillað hugi manna og aðal-innflytjendastraumurinn þangað leitað á síðustu árum. En landið byggist alt með tímanum — hver einasti byggilegur blettur þess. Árið 1905 (skýrslur um uppskeru árið 1906 ekki við hendina) var hveiti sáð í 2,643,588 ekrur, uppskera 55,761,416 bush. eða yfir 26 bush. af ekrunni. Höfrum sáð í 1,031,239 ekrur, uppskera 45,484,025 bushel, eða yfir 42 bush. af ekrunni. Byggi sáð í 432,298 ekrur, uppskera 14,064,025 bushel, eða yfir 31. bush af ekrunni. Flax (hörfræi) sáð í 24,770 ekrur, uppskera 326,944

bush. eða yfir 13 bush. af ekrunni. Rúg sáð í 6,923 ekrur, uppskera 173,075 bush. eða 25 bush. af ekrunni. Baunum sáð í 2,081 ekru, uppskera 53,706 bush. eða 26 bush. af ekrunni.

Kostnaðurinn við að plægja, sá, uppskera og flytja hveiti til markaðar er talinn $6 á ekruna. Nú var hveiti-uppskeran yfir 26 bush. af ekrunni að meðaltali árið 1905 og hveitiverð segjum 60c. hvert bushel. Verður þá ágóðinn af hverri ekru yfir árið $9.60 í hreinan gróða. Gott hveitiland er hægt að kaupa bæði í Mantoba og nýju fylkjunum fyrir $16 ekruna og þar yfir. Það þykir hátt verð í samanburði við verð á landi fyrir fáum árum síðan, en sé landið notað til hveitiræktar þá getur það meira en borgað sig á tveimur árum.

Manitoba-fýlkið er einatt í daglegu tali nefnt sléttufylkið eins og nýju fylkin vestur undan. Hafa fylki þessi verið nefnd svo vegna grassléttanna miklu sem gera akuryrkjuna svo hæga og auðvelda í samanburði við austurfylkin. Þó er ekki svo að skilja, að í Manitoba og nýju fylkjunum sé engir skógar. Víða eru margra mílna flákar vaxnir þéttum og stórum skógum, sem ómetanlega mikils virði eru til húsagerðar og eldsneytis. Auk skóga þessara er þétt skógarkögur meðfram svo að segja öllum ám og lækjum, þar sem eldur ekki hefir til náð.

Í Manitoba-fylkinu settust Íslendingar fyrst að þegar flutningur þeirra hófst til Vestur-Canada, og þar eru þeir fjölmennastir til þessa. Í bæjum þar eru ekki Íslendingar svo teljandi sé, nema í Winnipeg, Selkirk og Brandon. Í Winnipeg búa Íslendingar svo mörgum þúsundum skiftir og verður ekki annað sagt en þeim hafi farnast þar vel — margir í góðri stöðu og við góð efni og nokkrir sterkefnaðir orðnir. Þar eiga Íslend-

ingar þrjár kirkjur, goodtemplara-byggingu stóra og veglega og fleiri samkomustaði. Margir hafa komið upp feikna dýrum og vönduðum stórhýsum, allur fjöldinn býr í eigin húsum og yfirleitt eru húsakynni Íslendinga góð. Í Winnipeg eru þrír prestar íslenzkir, fimm lögfræðingar, fjórir læknar og þrjár lærðar hjúkrunarkonur. Þar eru gefin út tvö íslenzk vikublöð, fjögur mánaðarrit og þrjú ársrit. Þrír íslenzkir söfnuðir eru þar, þrjár goodtemplara stúkur og ýms önnur félög. Einn af fjórum þingmönnum Winnipeg-bæjar er Íslendingur og í bæjarstjórninni situr Íslendingur.

Í Selkirk eru Íslendingar all-fjölmennir. Hafa þeir komið sér upp kirkju og goodtemplarahúsi, og hjá þeim er þjónandi prestur. Í Brandon eru Íslendingar fámennir, en einnig þeir hafa reist sér kirkju þótt prestlausir séu.

Þessar eru bygðir Íslendinga í Manitoba: Nýja Ísland (elzta bygðin), Argyle-bygð, Sinclair-bygð, Morden-bygð, Big Grass- og Big Point-bygð, Sandy Bay-bygð, Álftavatns og Shoal Lake-bygð, Siglunes og Narrows-bygð, Pine Valley-bygð og Rat River-bygð. Blómlegust er Argyle-bygðin og efnuðustu bændurnir munu þar vera, en í nálega öllum bygðunum er almenn vellíðan og bændur í stöðugum uppgangi.





Hveitisláttur í Vestur-Canada.




# SASKATCHEWAN.

Vestur af Manitoba liggur Saskatchewan-fylkið, 229,229 fermílur á stærð eða 3½ sinnum stærra en Manitoba. Að sunnan er fylkið 400 mílur frá austri til vesturs, en 700 mílur á lengd frá suðri til norðurs. Norðurhluti fylkisins er enn þá lítt kannaður, en suðurhlutinn, eða sá hluti þess, sem kannaður hefir verið, er einkar gott land til akuryrkju og kvikfjárræktar. Ef til vill er jarðvegurinn öllu feitari í Manitoba heldur en í Saskatchewan, en úr því bætir aftur það, að loftslagið er mildara og veðrátta hagstæðari eftir því sem vestar dregur.

Í Saskatchewan eiga Íslendingar blómlegar bygðir. Elzt þeirra er Þingvalla og Lögbergs-bygðin og henni næst Qu'Appelle eða Dongola-bygðin. Báðar standa nú bygðir þær í miklum blóma; stunduðu bændur þar lengi framan af, einkum í Þingvalla og Lögbergsbygðinni, gripa og sauðfjárrækt og reyndist vel, en nú

á síðari árum hafa þeir gefið sig meira við jarðyrkju og framfarirnar síðan orðið stórstígari.

Yngsta Íslendinga-bygðin í Saskatchewan er Quill Valley-bygðin. Fyrir allmörgum árum settust nokkrir Íslendingar að umhverfis Foam Lake, þar sem nú er austurendi bygðarinnar, og stunduðu griparækt. Landrými var þar þá nóg, engi óþrjótandi og beitiland hið bezta. Allir þessir Íslendingar áttu valda nautgripi og fengu gott verð fyrir þá þó langt væri til járnbrautar, enda komust menn þeir brátt í góð efni og undu vel hag sínum. Nú fyrir þremur árum síðan hófst innflutningur Íslendinga þangað fyrir alvöru, og þegar þetta er skrifað eru þar taldir að vera yfir sjö hundruð íslenzkir landtakendur. Landkostir í Íslendinga-bygð þessari eru svo jafngóðir, að í því efni stendur hún öllum öðrum bygðum Íslendinga framar. Virðist alt á það benda, að þar rísi upp fjölmennasta og blómlegasta bygð Íslendinga í Vestur-Canada. Bygðin hefir líka átt því láni að fagna, að þangað hafa þyrpst bændur og bændasynir úr eldri bygðunum, einkum frá Norður Dakota, sem fullkomna þekking hafa á landbúnaði og komu auk þess sumir með talsverð efni. Í bygð þessari er alt á fljúgandi ferðinni í framfaraáttina. Eru þar nú þegar stórir akrar inngirtir og beitilönd (þar sem ekki eru hjarðlög), húsagerð framar öllum vonum eftirjafn skamman tíma og bygðin því líkust að hún væri 8 til 15 ára gömul. Í austurhlutanum, þar sem bygðin er eldri, eru bændur óðum nú að reisa stór og vönduð íbúðarhús og alt hjá þeim ber vott um velmegun og búsæld. Bygðin er 48 mílur frá austri til vesturs og 9 til 18 mílur á breidd frá suðri til norðurs. Skólar hafa verið reistir og barnakensla er komin á um gjörvalla bygðina, pósthús á hæfilegu millibili, myndarlegar

erzlanir í höndum Íslendinga, söfnuðir myndaðir og félagslíf bygðarinnar fjörugt og ánægjulegt.

Þegar menn settust þar að, var óvíst hvað langt yrði til járnbrautar, en þeir voru svo hygnir að gangast fyrir landkostum og eiga undir kasti hvað langt yrði til markaðar. Þeir treystu því, að fram hjá jafn góðu landi mundi járnbrautarfélögin ekki sneiða með brautir sínar, ef nýlendumenn ekki lægi á liði sínu. Og það reyndist þannig. Nú er verið að leggja járnbraut eftir bygðinni endilangri, svo heita má, að allir eigi örskamt til markaðar.





Hús Stephans G. Stephanssonar, skálds, Markerville, Alberta.



# ALBERTA.

Vestur af Saskatchewan-fylkinu og alla leið vestur að Klettafjöllum liggur Alberta-fylkið. Er það enn þá víðáttumeira en Saskatchewan, eða 281,000 fermílur. Að mörgu leyti á við það lýsing sú, er af hinum fylkjunum hefir verið gefin; að því viðbættu, að þar er óþrjótandi kolatekja, sem hingað til ekki hefir í hinum fylkjunum fundist. Sunnarlega í fylkinu er Íslendinga-bygð sú, sem venjulega er við Red Deer kend. Settust þeir þar að fyrir all-mörgum árum síðan og stunduðu gripa og sauðfjárrækt, en fyrst framan af voru framfarirnar fremur litlar eins og ekki er að furða, því að allir komu þeir þangað efnalausir að kalla og áttu auk þess fullar 100 mílur til járnbrautar að sækja. Á síðari árum hefir bygðin tekið stakkaskiftum miklum og horfurnar nú sérlega álitlegar og bændur margir komnir í beztu efni. Víða í bygðinni er útsýni forkunnar fagurt, bæði með fram Medicine-ánni, sem rennur í ótal bugðum eftir svo að kalla miðri bygðinni, og

eins austur á sléttunum þegar frá ánni dregur. Og frá heimilum flestra sést fjallgarðurinn hrikalegi (Klettafjöllin) í vesturátt, sem í augum Íslendinga að minsta kosti gefur útsýninu aukna fegurð.

Fyrst lengi var því haldið fram, að jarðvegurinn í bygð þessari væri lítt hæfur til kornyrkju, þar gæti ekki verið um annað en griparækt að ræða. En á síðari árum hafa Íslendingar gefið sig talsvert við jarðyrkju og hefir reynslan þegar sýnt, að gróðrarmagnið er frábærlega mikið. Og sé hveitinu sáð á haustin þá er þar alls ekki sumarfrostin fremur að óttast heldur en í austari fylkjunum.

Hagur Íslendinga í bygð þessari er í góðu lagi og hafa þeir vissulega enga ástæðu til að kvíða framtíðinni. Skal í því efni vísað til bréfanna frá Alberta, sem birt eru í bækling þessum.

Í Edmonton (höfuðstað fylkisins) hafa fáeinir Íslendingar sezt að og flestir stórgrætt síðan þangað kom. Þeir hafa myndað hjá sér söfnuð og fá til sín prest íslenzku bygðarinnar einu sinni á mánuði hverjum, þótt í eitt hundrað mílna fjarlægð búi. Í bænum Red Deer, sem bygðin er kend við, búa einnig nokkrir Íslendingar, sem þar hafa komið sér upp reisulegum húsum og líður vel.





Rúgakur Stephans G. Stephanssonar, skálds, Markerville, Alberta. — Maðurinn til hægri handar með hvíta húfu á höfðinu er S. G. S.



# Bendingar.

Í fylkjunum öllum, sem hér er um að ræða, er feiknamikið ónumið af heimilisréttarlandi einkum í Saskatchewan og Alberta, þar sem mikill hluti landsins má heita óbygt. Víða þar eru engu óálitlegri nýlendusvæði heldur en þau, sem Íslendingar hafa hingað til valið sér, og vonandi eiga eftir að myndast margar Íslendinga-bygðir víðsvegar um Vestur-Canada.

Erfiðleikarnir, sem fyrstu innflytjendurnir áttu við að stríða á frumbýlingsárum þeirra, eru margir hverjir nú með öllu úr sögunni. Hið mikla járnbrautakerfi innan fylkjanna gerir flutninga alla greiða og bóndanum hægt að koma vörum að sér og frá. Stórbæir hafa risið upp, sem eru upp á alla bændavöru komnir og kaupa hana dýru verði. Atvinnuvegir eru svo miklir og margbreyttir, að allir, sem vilja, geta fengið vinnu og gott kaup nær því hvar sem er og á öllum tímum ársins. Akvegir eru ruddir og ár brúaðar jafnóðum og landið byggist og erfiðleikum og tálmunum á allan hátt rutt úr vegi bændanna.

Á engan hátt er jafn auðvelt og fljótlegt að komast í þægileg efni eins og þann að setjast á gott land og byrja búskap. Og engin staða í landinu er eftirsóknarverðari eða ánægjulegri heldur en bændastaðan. Margir innflytjendur, sem ílengzt hafa í bæjunum, iðr-

ast þess sárt að hafa ekki undir eins og vestur kom flutt út á land og byrjað búskap sem fyrst. Þannig hugsa ekki einasta fátæklingarnir í bæjunum heldur fjöldi þeirra, sem þar hafa komist í sæmileg efni. Happadrýgst verður það fyrir innflytjendur, hvort sem þeir eru efnaðir eða efnalausir, að flytja tafarlaust út á landið og vinna hjá bændum þangað til þeir hafa valið sér heimilisréttarland og sjá sér fært að byrja sjálfir búskap.

Um sumartímann, þegar flestir innflytjendur koma til Vestur-Canada, bjóðast venjulega hærri daglaun í bæjunum heldur en hjá bændum, og freistast því fjöldinn, og það eðlilega, til að sæta því bezta, sem býðst. En innflytjandinn gerir sér ekki grein fyrir því, eða vinir hans gera honum ekki nægilega grein fyrir, hvað óendanlega miklu meira honum yrði úr laununum úti í sveit heldur en inni í bæjum. Og það, sem mest er um vert: Með því að komast í vist til bænda stígur maður fyrsta sporið í rétta átt til þess að verða sjálfur bóndi.

---

## Bezta aðferðin.

Ungir menn, sem hafa í hyggju að verða landeigendur og bændur, ættu undir eins og vestur kemur að komast í vist hjá bændum. Leiðbeiningar í því efni fást ókeypis á innflytjendaskrifstofum stjórnarinnar. Á meðan menn eru fákunnandi mega þeir ekki búast við háu kaupi, en það smáhækkar jafnóðum og vinnan lærist. Með þessari aðferð geta duglegir og samheldnir vinnumenn á þremur árum, eða jafnvel á skemmri tíma, komist yfir næga þekkingu og efni til þess að byrja sjálfir búskap.

Gift hjón geta venjulega fengið góða vist hjá

bændum og það þó þau hafi eitt barn eða tvö í eftirdragi. Hefir aðferð sú reynst happadrýgri heldur en að staðnæmast í bæjunum.

## Efnaðir innflytjendur.

Jafnvel efnuðum innflytjendum, sem ekki kunna búskaparaðferðir í landinu, er ráðið til þess að vinna hjá bændum fyrstu tvö til þrjú árin. Slíkt margborgar sig.

## Hvað hægt er að gera með $500.

Maður, sem á $500, getur hæglega tekið heimilisréttarland, komið sér upp bráðabirgðahúsi og int heimilisréttarskyldur sínar af hendi. Samkvæmt lögum þarf hann ekki að búa nema hálft árið á landinu, hinn árshelminginn getur hann unnið hjá öðrum. Á þennan hátt hefir margur byrjað búskap og innan fárra ára orðið gildur bóndi.

## Hvað hægt er að gera með $1000.

Maður, sem á $1,000 og sezt á heimilisréttarland, getur komið sér upp viðunanlegu bráðabirgða íveruhúsi og skýli handa hestum, nautgripum, svínum og fuglum; eignast 2 hesta, 2 kýr, gyltu, nokkra fugla, vagn, plóg, herfi, sláttu og rakstrarvél, sáningarvél og fleiri verkfæri, og auk þess keypt þó nokkurn matarforða til heimilisins. Fyrsta haustið getur hann unnið tveggja mánaða tíma hjá öðrum við uppskeru og þreskíng og fengið hátt kaup fyrir sig og hesta sína.

---

Á engan hátt er óhultara eða álitlegra fyrir efnamanninn að ávaxta fé sitt heldur en það, að kaupa

land í Vestur-Canada. Margir hafa á þann hátt grætt stórfé á undanförnum árum, og margir munu á þann hátt græða stórfé á komandi árum. Landið er enn þá víða í lágu verði, en hækkar ár frá ári eftir því sem bygðin eykst og þéttist.

---

Fátækir áhugamenn, hvort heldur fjölskyldumenn eða einhleypir, geta á engan hátt betur trygt framtíð sína og sinna heldur en þann að eignast landskika í Vestur-Canada og verða þar bændur.

---



# Til skýringar.

*Lengdarmál.*

12 þumlungar eru 1 fet.
3 fet eru 1 yard.
5½ yard eru 1 rod.
40 rods eru 1 furlong.
8 furlongs eru 1 míla.
1 míla er 880 faðmar

*Landmæling..*

7.92 þuml. eru 1 link.
25 links eru 1 rod.
4 rods eru 1 keðja.
10 ferkeðjur eru 1 ekra.
640 ekrur eru 1 fermíla.

1 Section er 640 ekrur eða 1 fermíla.
1 ekra er 1210 ferfaðmar.

*Þurramæling.*

2 pints eru 1 quart.
8 quarts eru 1 peck.
4 pecks eru 1 bushel.
1 bushel er rúmar 2 skeppur danskar.

1 Ton er 2,000 pund.
1 Cord af eldivið er 128 teningsfet.



Hveitisláttur í Vestur-Canada.



# BRÉF

**frá Íslendingum í Saskatchewan og Alberta fylkjunum í Vestur-Canada.**

Foam Lake P. O., Saskatchewan,
í Júlímánuði 1906.

Eg byrjaði búskap í Þingvalla-nýlendunni fyrir 20 árum síðan við mjög lítil efni. Eftir sex ára búskap þar flutti eg vestur hingað í hina svo nefndu Foam Lake bygð. Fyrir alvöru hófst þó ekki aðal-innflutningur Íslendinga hingað fyr en löngu síðar eða nú fyrir þremur árum.

Síðan hingað kom get eg ekki annað sagt en mér hafi vel farnast. Eg á nú hálfa aðra *section* af góðu landi; öll nauðsynleg jarðyrkjuverkfæri; 200 nautgripi af góðu kyni; 25 hross; 70 sauðfjár, og auk þess nokkur svín og alifugla. Eg á nú á annað hundrað ekra af plægðu landi. Hveiti á eg í 40 ekrum og annan kornmat í 50 ekrum.

Fyrir löngu er viðurkent að landið hér sé einkar vel lagað til kvikfjárræktar; en síðan menn fóru að plægja og sá, hefir það sýnt sig, að landið er engu síður ágæt-

lega fallið til kornræktar. Í fyrra var meðaluppskera hér af ekrunni 28 bushel af hveiti, 40 bushel af byggi og 70 bushel af höfrum.

Engi er hér mikið og gott, nóg og gott vatn og nægur skógur til eldsneytis.

Síðan eg settist hér að hafa sumarfrost aldrei gert vart við sig svo snemma, að hveiti hafi mætt skemdum. Á öllum tímum ársins er veðráttan hagstæðari heldur en þegar austar dregur.

Eg hefi sérlega gott álit á bygð þessari og geri mér góðar vonir um, að Íslendingar hér, þó hingað hafi komið efnalitlir, eigi góða framtíð fyrir höndum.

*Kristján Helgason*
(Sigurðssonar frá Vatnsenda í Eyjafirði).

---

Foam Lake P. O., Saskatchewan,
í Júlímánuði 1907.

Eg flutti frá Mosfelli í Árnessýslu árið 1887, þá 24 ára gamall. Tók eg þann kostinn þegar vestur kom að setjast að úti á landinu en ekki í bæjum og tók mér því heimilisréttarland í Þingvalla-nýlendunni. Á landinu vann eg vissa tíma ársins, en brá mér öðru hvoru frá og vann hjá öðrum.

Á þeim árum gengu svo tilfinnanlegir þurkar yfir Þingvalla-nýlenduna, að eg tók mig upp eftir fimm ár og flutti hingað vestur og fékk nýtt heimilisréttarland í skiftum.

Byrjaði eg þá búskap hér með 12 nautgripi og vagn, sem mér hafði græðst í Þingvalla-nýlendunni.

Nú á eg heimilisréttarlandið (og aðrar 160 ekrur,

sem að miklu leyti liggja undir vatni); 12 hross; 80 nautgripi; 50 sauðfjár; 7 svín og fugla; vagna og öll venjuleg akuryrkjuverkfæri; þreskivél að hálfu o.s.frv.

Og eg get bætt því við, að eg er skuldlaus.

Árnessýsla mun fyrir margra hluta sakir vera talin einhver bezta sýslan á Íslandi, og geri eg mér enga von um að mér hefði græðst jafnmikið fé eða liðið jafnvel þó eg hefði mátt kjósa þar um bújörð.

Bygðin stendur, að minni hyggju, hvað legu og landkosti snertir, ekki á baki Íslendinga-bygðum þeim vestan hafs, sem bezt hafa reynzt og mest hefir verið af látið, enda fæ eg ekki annað séð en horfurnar hér séu einkar álitlegar eftir jafn-fá ár.

*Bjarni Jasonsson,*
(frá Mosfelli).

---

Foam Lake P. O., Saskatchewan,
í Júlímánuði 1907.

Árið 1887 fluttist eg frá Íslandi með föður mínum, sem settist fyrst að í Þingvalla-nýlendunni, en flutti þaðan hingað vestur árið 1892.

Byrjaði eg þá búskap með 7 nautgripi; 12 kindur; 2 smáhesta (ponies); 2 tryppi; vagn; sláttuvél, hrífu og plóg — og $400.00 skuld. Allar eignir mínar voru þannig sáralítið meira en nógar fyrir skuldinni.

Nú á eg ¾-*section* af landi, sem gott er bæði til akuryrkju og kvikfjárræktar, þar af plægt 100 ekrur; hveiti, hafrar, bygg og flax í 80 ekrum og landið alt inngirt. Eg á 10 hross; 100 nautgripi; 12 kindur; 10 svín og alifugla marga.

Þriðjungurinn af landi mínu er heimilisréttarland,

en tvo þriðjunga keypti eg og er land það enn ekki fullborgað. Eg bý hálfa þriðju mílu frá járnbrautarstöðvum; á nógan eldivið og nóg og gott vatn bæði í brunni og í læk.

Bygðina álít eg góða og framtíðarhorfur Íslendinga hér álitlegar í bezta lagi.

Meðaltal hveitiuppskerunnar í fyrra var 3 bush. hærra hér heldur en í nokkru öðru byðgarlagi innan fylkisins. Haustið 1906 var hveitiuppskeran hér 26 og upp í 34 bushel af ekrunni.

Hingað til hefir dregist fyrir mér að koma upp vönduðu íbúðarhúsi, en vandað 30 kúa fjós hefi eg reist, með svo rúmgóðu heylofti, að þar má koma inn 15 til 20 kýrfóðrum.

Alment er það álit manna, að landið hér, bæði hvað snertir legu og landkosti, standi alls ekki á baki landinu í bygðunum gömlu, sem bezt hafa með Íslendinga farið.

*Gísli J. Bíldfell,*
(frá Bíldfelli í Grafningi í Árnessýslu).

---

Fishing Lake, Saskatchewan,

Eg álít landkosti hér betri eða jafnari að gæðum heldur en þar sem Íslendingar byggja í Norður Dakota. Þau þrjú ár, sem eg hefi hér búið, hefir ekki orðið neinna hættulegra sumarfrosta vart. Hér er nægilegt og gott vatn og nægileg eldiviðartekja til margra ára.

*Kelly J. Brandson.*

---

Fishing Lake, Saskatchewan,
í Nóvembermánuði 1906.

Eg flutti hingað frá Norður Dakota eftir að hafa verið þar og í Minnesota um tuttugu ár við búskap með foreldrum mínum.

Landið hér álít eg mjög vel lagað til akuryrkju og kvikfjárræktar — landgæðin svo mikil að vel þoli samanburð við Íslendinga-bygðirnar í Norður Dakota og Minnesota, þar sem eg þekki til. Heyskapur er hér góður, viður nógur til húsabygginga og eldsneytis, og víðasthvar grunt að grafa eftir nógu og góðu vatni.

Hveitiuppskeran af landi mínu í haust var 30 bush. af ekrunni að meðaltali. Þau þrjú ár, sem eg hefi hér búið, hafa haustfrost ekki komið svo snemma, að skemdir hafi af orðið.

*Gunnar Gíslason,*

(Jónssonar, sem síðast bjó á Dvergasteini í Norður-Múlasýslu).

---

Kristnes P. O., Saskatchewan,
í Júlímánuði 1907

Samkvæmt loforði mínu sendi eg hér með álit mitt á Foam Lake-bygðinni.

Landið er öldumyndað, og eru öldurnar vel fallnar til jarðræktar, því þær þola miklar bleytur og mikla þurka í samanburði við Rauðárdalinn. Rauðárdals-jarðvegurinn tekur t. d. í sig að eins 47% af vatni, þá er hann orðinn gegnblautur. Jarðvegurinn hér tekur aftur á móti í sig 49% af vatni.

Rauðárdalsjarðvegurinn hættir að gefa vatn til jurtalífs þegar eftir er í honum 19% vatns, en jarðveg-

urinn hér gefur frá sér vatn þangað til eftir er 17%.

Í fljótu bragði virðist ekki mismunur þessi mikill, en hann er samt nægilegur til þess að geta framleitt 500 pund hveitis af hverri ekru.

Jurtalífsmoldin hér er tvö til þrjú fet á dýpt, en undirlagið (subsoil) er uppleystur klettur og einkar auðugt af jarsöltum, sem nauðsynleg eru til korngróðurs.

Regnfall og snjófall er hér nálægt 20 þumlungar á ári.

Vetrarfrost hér eru 2 til 5 gráður minna en í Manitoba-fylki austanverðu.

Landið í heild sinni er vel fallið til blandaðs búskapar, þ. e. kvikfjárhalds og akuryrkju.

Íslendingabygðin hér á mikla framtíð fyrir höndum; hún tekur fljótari framförum en dæmi eru til með nokkra aðra íslenzka nýlendu í Ameríku, og á skamt í land að verða með þeim fremstu.

*T. F. Björnson,*

sonur Friðbjörns Björnssonar frá Fornhaga í Hörgárdal.

---

Kristnes P. O., Saskatchewan,
í Júlímánuði 1907.

Árið 1883 flutti eg vestur um haf — þá 16 ára gamall — og þremur árum síðar til Þingvalla-nýlendunnar með föður mínum.

Eignin öll, þegar til Þingvalla-nýlendunnar kom, var $75.00 í peningum, og hrökk það ekki til að borga að fullu tvær kýr, sem við keyptum. Eftir þrjú ár tók eg við búinu, og árið 1899 tók eg mig upp og flutti hingað vestur í Foam Lake-bygðina.

Nú á eg eina *section* af landi, að meðtöldu heimilisréttarlandi föður míns; 16 hross; 150 nautgripi; 120 sauðfjár; 4 svín og heilmikinn hóp alifugla; vagna og sleða og öll nauðsynleg jarðyrkju-áhöld; stórt og vandað hús á steinkjallara og með miðstöðvarhitun; hveiti, hafra og bygg í 70 ekrum og kálgarð.

Auðvitað hefi eg gott álit á bygðinni, og síðan vissa var fyrir því fengin, að járnbraut legst eftir henni, þá blandast engum hugur um, að hún á mikla framtíð fyrir höndum og ætti með tímanum að verða einhver fjölmennasta og blómlegasta Íslendinga-bygðin, sem enn þá hefir myndast vestan hafs.

*Guðbrandur Narfason,*
(frá Hákoti á Álftanesi í Gullbringusýslu).

---

Kristnes P. O., Saskatchewan,
20. Júlí 1907.

Fyrir fjórum árum síðan flutti eg í þetta bygðarlag frá Yorkton, Sask. Tók eg mér heimilisréttarland á Sect. 16, Tp. 32, R. 12 vestur af 2. hádegisbaug. Var þá lítil bygð hér, en síðan hefir mátt heita stöðugur innflutningur, enda næstum öll heimilisréttarlönd tekin nú og búið að kaupa í viðlót nokkuð af löndum.

Það mun næstum dæmalaust, að jafnstórt bygðarlag hafi verið tekið upp á jafnskömmum tíma, en orsökin er sú, að bygð þessi er í mjög miklu áliti fyrir landkosti. Eftir fjögra ára reynslu er eg sannfærður um, að þetta góða álit er á fullum rökum bygt.

Hvað félagsskipun og samgöngur snertir, þá er það eins framarlega og í nokkru öðru jafnungu bygðarlagi. Allmargir alþýðuskólar eru þegar stofnaðir og teknir til starfa. Vegabótahéruð hafa verið mynduð og póst-



Bóndabýli í ~~Swan~~ River-dalnum í Manitoba.



Þresking.



Hús Kristins Kristinssonar, Markerville, Alberta.

húsum fjölgar ár frá ári. Póstflutningur hefir að þessu verið einu sinni í viku, en nú er að miklu leyti fullger járnbraut skamt héðan, er liggur nálægt miðju héraði því, sem Íslendingar hafa tekið sér bólfestu í; verður þá póstflutningur tíðari, aðdrættir verða hægri en áður og verzlun og viðskifti hagfeldari og fjörugri.

Uppskera hefir verið mjög góð þessi ár, sem eg hefi dvalið hér, enda er jarðvegur hinn bezti.

Eg er nú búinn að vera 18 ár í Canada, og er nokkuð kunnur Íslendinga-bygðum í Saskatchewan, en eg tel óhikað þessa bygð vera bezta þeirra og framtíðarhorfur íbúa hennar hinar glæsilegustu.

*J. S. Thorlacius.*
(úr Eyjafirði).

---

Laxdal P. O., Saskatchewan,
í Júlímánuði 1907.

Tíu ára gamall fluttist eg til Vesturheims með föður mínum, og hefi eg átt heima í Gardar-bygðinni í Norður Dakota þangað til nú fyrir rúmum þremur árum, að eg flutti norður hingað.

Eins og kunnugt er hefir Gardar-bygðin verið (og það réttilega) talin með allra helztu og blómlegustu bygðum Vestur-Íslendinga.

En að því er eg fæ bezt séð stendur bygð þessi á engan hátt á baki Gardar-bygðinni, að legu og landkostum.

Eðlilega er búskapurinn ekki kominn langt áleiðis enn þá og akrar hér ekki jafn vel undirbúnir og í eldri bygðunum, en þrátt fyrir það hefir uppskeran verið frábærlega góð og mikil að meðaltali.

Hveitiuppskera hjá mér í fyrra var 33 bush. af ekrunni og mun það hafa verið talin rúm meðal uppskera.

Árið áður fékk eg 500 bush. af höfrum af fimm ekra akurbletti. Af höfrum þeim sendi eg kunningjum mínum í Gardar-bygð sýnishorn og þótti þeim mikið til koma.

Hér getur maður stundað akuryrkju eingöngu, eða akuryrkju og kvikfjárrækt (mixed farming). Landið er til hvortveggja jafn vel lagað.

Með dugnaði þeim, sem Íslendingar hafa sýnt síðan hingað kom, verður þess vonandi ekki langt að bíða, að hér verður, ef ekki ber óvænt óhöpp að höndum, einhver blómlegasta Íslendinga-bygðin vestan hafs.

*J. O. Johnson,*
(sonur Odds Jónssonar úr Bitrusveit í Strandasýslu).

---

Sleipnir P. O., Saskatchewan,
í Júlímánuði 1907.

Eg kom hingað 1. Apríl 1905, og plægði þá 10 ekrur og sáði höfrum í, og í aðrar 10 sáði eg flaxi. Uppskeran næsta haust af blettum þessum var 35 bush. af höfrum og 14 bushel af flaxi af ekrunni. Árið 1906 fékk eg af 10½ ekru 31 bush. og af 9½ ekru 38 bush. af hveiti af ekrunni. Af höfrum fékk eg 60 bush. af ekrunni, en af flaxi fékk eg 10 bush. af vorplæging. Þeir, sem við jarðrækt hafa átt hér eða í Bandaríkjunum, geta af þessu, sem hér að ofan er sagt, farið nærri um það hvernig jarðvegurinn hér muni vera.

Eg hefi keypt hér 640 ekrur af sáðlandi, auk heimilisréttarlands míns, og sýnir slíkt betur en nokkuð annað hverja trú eg hefi á landinu og framtíð bygðarinnar.

Landið keypti eg á $8.00 ekruna og þótti ódýrt, enda er nú landið hér komið upp í $16.00.

Eg hefi nú plægt yfir 300 ekrur og í vor eð var sáði eg í rúmar 200 ekrur.

Hæglega getur svo farið, að uppskeran bregðist í ár, en slíkt varpar ekki hinni minstu rýrð á bygðina, því að árferði er nú óvenjulega stirt ekki einasta hér í Vestur-Canada, heldur svo að segja um gjörvalt þetta mikla meginland.

Af öllum þeim fjöldá manna, sem hér hafa sezt að, hefi eg engan heyrt hallmæla landinu og er slíkt í fyrsta sinni, sem eg hefi mætt því í nýbygð, að allir væri ánægðir.

Landkostir eru hér jafnari en í hinni góðu Norður Dakota bygð, sem eg alt til þessa hafði tekið fram yfir allar Íslendinga-nýlendurnar.

Álit mitt er, að hér verði lang stærsta og fegursta bygð Íslendinga. Náttúrufegurð er hér mikil einkum í vesturhluta bygðarinnar með fram hinum stóru og fögru Quill-vötnum. Landinu hallar lítið eitt til norðurs, niður að vötnunum, og á bak við, að sunnnan, liggja Touchwood-hæðirnar að mestu skógi vaxnar; og hér og þar renna silfurtærir lækir úr hæðunum niður eftir bygðinni og eru að sumum þeirra djúp gil grasi vaxin og sumstaðar skógi.

Væri húsagerð hér og jarðabætur jafn langt á veg komið eins og í Dakota-bygðinni, þá mundi eg naumast vilja skifta ekru fyrir ekru hér og þar. Í Dakota hefi eg búið 23 ár og er mér því kunnugt um misfellurnar á uppskerunni þar nú á síðari árum.

Eg hefi kynst landi og landbúnaði í ríkjunum Wisconsin, Minnesota, Illinois, Michigan, Nebraska og North Dakota, og segi eg það í allri alvöru, að í engu

þeirra hefi eg séð álitlegra land en hér fyrir efnalitla nýbyggja.

Stjórnarfyrirkomulag hér hefi eg enn þá ekki kynt mér svo, að eg geti mikið um það sagt. En geta má þess, að fylkisstjórnin er fljótari til að bæta vegi með brúagerð o. s. frv. og gerir sér meira far um að greiða fyrir og létta undir með nýbyggjum heldur en menn eiga að venjast í Bandaríkjunum.

Þegar eg settist hér að fyrir rúmum tveimur árum síðan, var engin vissa fyrir því fengin hvar hér yrði járnbraut lögð. En í því efni kveið eg engu. Mér leizt þannig á bygðarstæðið, að Can. Pac. járnbrautarfélagið mundi sjá sinn eigin hag í því að leggja ekki leið sína langt fyrir ofan garð eða neðan.

Og álit mitt reyndist rétt.

Nú er verið að leggja járnbraut eftir bygðinni endilangri, svo að segja miðri, frá austri til vesturs, og legst hún yfir landið mitt tæpa eitt hundrað faðma frá húsinu mínu. Allir nýlendumenn eiga þannig örskamt að fara til markaðar og gerir slíkt þá auðvitað enn þá ánægðari með bygðina.

Nokkrum mílum norðar liggur járnbraut, sem tilheyrir öðru félagi, og er slíkt mikils virði, því að með því er trygging fengin fyrir hæfilegri og nauðsynlegri samkepni, greiðari flutningum og lægra flutningsgjaldi.

Eg er ánægður hér og álít þá heppna, sem hér eignast góða bújörð sem fyrst, því að alt bendir á, að Vestur-Canada verði framtíðarland Vestur-Íslendinga.

*Sigurjón Sveinsson,*
(frá Garði í Aðalreykjadal).

---

Sleipnir P. O., Saskatchewan,
í Júlímánuði 1907.

Eg flutti hingað vestur fyrir þremur árum frá Argyle-bygðinni í Manitoba, þar sem eg var uppalinn.

Landið hér álít eg á engan hátt standa á baki landinu í Argyle-bygðinni og tel eg löndum mínum það happ mikið að hafa sezt hér að og náð haldi á jafn stóru landsvæði.

Alt bendir á, að hér eigi menn góða framtíð fyrirhöndum.

*Hannes Anderson,*
(sonur Skúla Árnasonar úr Norður-Þingeyjarsýslu).

---

Sleipnir P. O., Saskatchewan,
í Júlímánuði 1907.

Eftir að eg hafði búið yfir tuttugu ár nálægt Milton í Cavalier Co., North Dakota, flutti eg hingað norður með konu mína og sex börn og tók heimilisréttarlönd handa mér og fjórum sonum mínum.

Hvað landgæði snertir álít eg að bygð þessi standi framar bygð þeirri í Norður Dakota, sem eg hvarf frá; og lega landsins, hvað samgöngur snertir, getur ekki verið hentugri en hún er hér síðan vissa var fengin fyrir því, að járnbraut legst eftir bygðinni endilangri.

Eg tel það happ mikið Íslendingum að hafa sett sig hér niður. Framtíðarhorfurnar eru frábærlega álitlegar, enda eru menn alment ánægðir og vongóðir.

Hér í landi hefir mér aldrei liðið betur en nú.

*Friðrik Bjarnason,*
(frá Vatnsnesi í Húnavatnssýslu).

---

Sleipnir P. O., Saskatchewan,
í Júlímánuði 1907.

Það er einlæg sannfæring min, að landkostir bygðar þessarar séu fullkomlega eins góðir og í hinni nafnfrægu Argyle-bygð. Þar ólst eg upp hjá föður mínum —Stefáni Péturssyni frá Sigluvík—og er því landgæðum þar gagnkunnugur.

Að mínu áliti eiga Íslendingar hér mjög góða framtíð.

*Jón Stefánsson.*

---

Sleipnir P. O., Saskatchewan,
í Júlímánuði 1907.

Allvíða hefi eg ferðast til að skoða land: í McLean County í Norður Dakota, í norður Minnesota og suðaustur Manitoba. Af landi því er eg ferðaðist um, var álitlegast talið landið í McLean County. En hvergi sá eg blett, er mér leizt jafn vel á til landnáms, eins og bygð þessa. Álit eg hana á engan hátt standa gömlu Íslendinga-bygðunum á baki og alt á það benda, að hér eigi menn sérlega góða framtíð fyrir höndum.

Í Íslendinga-bygðinni í Pembina County í Norður Dakota var talinn að vera góður jarðvegur til kornyrkju, en hér álít eg jarðveginn að ýmsu leyti hentugri og affarasælli í misjöfnu árferði.

Úrgangsminna land en hér er í bygðinni, hefi eg í engri bygð séð.

Margir hafa orð á og dást að, hvað lítill nýlendubragur hér sé á öllu—hvað alt sé hér vel á veg komið eftir jafn skamman tíma. Mun slíkt fyrst og fremst af því stafa, að hávaði innflytjendanna, einkum þeir, sem



Maður að slá hveiti nálægt Swan River.



Menn við uppskeru í Swan River-dalnum.

hingað fluttu frá Norður Dakota, voru landbúnaði vanir, vissu nákvæmlega hvað við átti og komu auk þess margir með talsverð efni.

*Halldór J. Halldórsson,*
(sonur Jónatans Halldórssonar úr Miðfirði í Húnavatnssýslu; kaupmaður og póstmeistari á Sleipnir).

---

Wadena, Saskatchewan,
í Júlímánuði 1907.

Eg er kunnugur bæði í Norður Dakota og í norður Minnesota, þar sem Íslendingar hafa helzt búið, og álít eg, að þeir, sem þaðan hafa tekið sig upp og flutt hingað norður í Vestur-Canada, hafi gert góð skifti.

Landið er ekki einasta frjósamt og vel lagað til akuryrkju og kvikfjárræktar, heldur jafnara að gæðum og úrgangsminna en alment gerist í öðrum bygðum.

Veðrátta er hér öllu hagstæðari heldur en í Rauðárdals-bygðunum.

Löndum mínum tel eg það happ mikið, að hafa sezt hér að, og eg fæ ekki betur séð en framtíðarhorfur þeirra sé hinar álitlegustu; menn eru líka vongóðir og ánægðir yfir að vera komnir hingað.

Því miður er hér nú orðið lítið um ónuminn heimilisréttarlönd, og járnbrautarlandið komið í of hátt verð fyrir efnalitla innflytjendur, en naumast mun þurfa lengi að leita til þess að finna álíka álitlegan landfláka í þessu frjósama og víðáttumikla norðvesturlandi.

Með frábærum dugnaði hafa Íslendingar afkastað svo miklu og búið svo vel um sig í bygð þessari, eftir jafn skamman tíma, að aðdáanlegt er.

*Friðrik Vatnsdal,*
(kaupmaður og póstmeistari í Wadena).

Kristnes P. O., Saskatchewan,
í Júlímánuði, 1907.

Sjaldan mun lánið hafa brosað eins við íslenzkum landnemum eins og þegar þeir ásettu sér að setjast að í þessari bygð. Hún hefir það alt til að bera, sem að því lýtur að gera framtíð manna álitlega. Hún er fögur; hvívetna skiftast á vötn, landöldur, skógar og sléttur; jarðvegurinn er hreinn og feitur, og víðast hvar frá hálft annað til hálft þriðja fet á dýpt. Loftslagið hið yndislegasta; vetrar ekki harðir svo að orð megi á gera, sumur næg'lega heit til að fullþroska flestar korntegundir, en þó jafnan svalar nætur.

Stjórnarfyrirkomulagið er hið hagvænasta, er orðið getur, fyrir land, sem er óðum að byggjast, og má segja, að stjórnin geri alt, sem í hennar valdi stendur, til þess að auðvelt geti verið fyrir innflytjendur að komast hingað, ná sér í heimilisréttarlönd, og að koma á fót skóla- og vegabótahéruðum.

Það mun varla hægt að neita því, að horfur þessarar bygðar eru hinar beztu. Margir koma hingað allvel efnum búnir, og hinir, sem minna hafa, geta ætíð fengið atvinnu, sem ekki er örðugt að sækja og allvel er launuð. Allir gera sér góðar vonir um framtíðina; og má í einu orði segja, að þó margt sé erfitt, eins og við má búast í nýlendu, að líðun manna sé yfir höfuð hin bezta.

*Árni Kristinsson.*

Evarts, Alberta,
í Ágústmánuði 1907.

Fyrir tæpum tuttugu árum flutti eg með lítil efni frá Winnipeg hingað vestur til Alberta. Nú á eg hálfa *section* (320 ekrur) af góðu landi, góðan gripastól, 5 hesta, nokkur svín o. s. frv., og svo auðvitað jarðyrkjuverkfæri, vagna og annað, sem bóndinn ekki kemst vel af án. Akrar mínir líta vel út og eg er hæst ánægður með hlutskifti mitt síðan eg settist hér að.

Heppilegast og réttast álít eg það, að hver maður sé látinn sjálfráður um hvar á hnettinum hann velur sér framtíðarheimili handa sér og sínum. En leituðu vinir mínir ráða hjá mér, þá mundi eg ekki hika við að benda þeim á Vestur-Canada sem álitlegasta framtíðarlandið.

Eg fæ ekki betur séð en hér í Alberta-fylkinu, til dæmis, geti hver dugandi ungur maður náð sér þannig niðri, að hann eftir tiltölulega fá ár verði sjálfbjarga maður með álitlega framtíð. Því að þótt hér í bygð okkar sé naumast framar um gefins heimilisréttarland að ræða, og járnbrautarland það, sem enn er óselt, sé orðið of dýrt fyrir efnalitla innflytjendur, þá er enn nóg landrými innan hins víðáttumikla Alberta-fylkis, og er víða þar land ónumið, sem vel þolir samanburð við beztu löndin í bygð þessari.

Fyrst framan af stunduðu Íslendingar hér griparækt eingöngu, sem efnalitlum nýbyggjum reynist í flestum tilfellum happadrýgst, enda héldu ýmsir því fram þá, að landið væri naumast til annars hæft. En á síðustu árum hafa menn byrjað á akuryrkju með griparæktinni og reynist það þá, að landið er engu síður hæfilegt og vel lagað til kornyrkju.

Veðrátta hér austan Klettafjallanna er heilnæm og

hagstæð og allur gróður jafnvel stórfeldari en austur í hinum víðfræga Rauðárdal.

Stjórnarfyrirkomulagið hér álít eg hagkvæmt og skóla- og póstgöngufyrirkomulag eins hentugt og við er hægt að búast í jafn ungri bygð.

Þetta rita eg ekki í því skyni að hvetja fólk á Íslandi til vesturflútnings, heldur til þess, samkvæmt beiðni, að lýsa rétt og samvizkusamlega horfunum hér og áliti mínu á bygðarlaginu og framtíðarhorfum Íslendinga, sem virðast vera einkar álitlegar.

*Vigfús Halldórsson,*
*(frá Skógum í Axarfirði).*

---

Markerville, Alberta,
í Ágústmánuði 1907.

Eg lofaði að skrifa fáeinar línur viðvíkjandi áliti mínu á bygðarlagi þessu, en það verður gert meira af vilja en mætti, því eg hefi verið hér svo skamman tíma búsettur, að eg get tæplega dæmt um bygðina af eigin reynslu. Það tekur lengur en fjögur ár að verða gagnkunnugur gæðum og göllum landsins.

Aðal-atvinnuvegur hér er griparækt og smjörgerð, og til þess er sveit þessi hentust. Hagar eru hér góðir á sumrum og kýr mjólka vel og gefa af sér góðan arð.

Vetrarharðindi eru hér engin í samanburði við það, sem við áttum að venjast í Norður Dakota.

Kornrækt er hér nú byrjuð í smáum stíl, aðallega bygg og hafrar, og hepnast vel; stöku menn hafa sáð hér vorhveiti með góðum árangri og hausthveiti þrífst hér vel, sömuleiðis garðávextir: rófur, kartöflur og fleira þesshháttar.

Það var alment álitið fyrr á árum, og það jafnvel

fyrst eftir að eg kom hingað, að hér væri ekki til neins að sá neinni korntegund vegna sumarfrosta; en seinni ára reynsla hefir sýnt hið gagnstæða. Það virðist eins og hið sama ætli að verða ofan á hér eins og í gömlu bygðinni okkar Íslendinga á Pembina-fjöllunum í Norður Dakota og víðar, að eftir því sem meira er ræktað af landinu, eftir því breytist tíðarfarið og verði hagstæðara — sumarfrostin hverfi, loftslagið hlýni.

Að bygð þessi eigi góða framtíð fyrir höndum, um það efast eg ekki. Að hér hafi hingað til verið vel lifandi sannast bezt með því í hvað góð efni menn eru komnir og hvað fáir hafa flutt á burt héðan af þeim, sem hér settust að fyrir 18 til 20 árum síðan.

*G. S. Grímsson.*

---

Markerville, Alberta,
í Ágústmánuði 1907.

Eg fluttist til Vesturheims frá Ljótsstöðum í Vopnafirði árið 1873. Dvaldi fyrstu sex árin í Wisconsin-ríkinu í Bandaríkjunum. Árið 1881 tók eg heimilisréttarland í Norður Dakota, nálægt Gardar í Pembina Co., og bjó þar þangað til árið 1890, að eg flutti til Vestur-Canada og settist að í Alberta þar sem eg hefi búið síðan.

Sameign mín og barna minna er nú 490 ekrur af landi, rúmlega 100 nautgripir og 16 hross.

Eg hika mér ekki við að staðhæfa að reynslan hafi sannfært mig um það, að Alberta-fylkið standi, hvað snertir náttúrufegurð, tíðarfar og landgæði, langt um framar því, sem eg hefi áður átt kost á að kynnast.

Á frumbýlingsárum Íslendinga í Alberta, eða nokkur fyrstu árin, var kornrækt litið stunduð, og olli því

fjarlægð bygðarinnar frá járnbraut ásamt fátækt og fleiri örðugleikum. En nú síðari árin hefir jörðin verið tætt sundur, kornyrkjan gerð að verulegri atvinnugrein og uppskeran verið góð og mikil. Akrar fara líka sívaxandi nú með ári hverju og bændur alment orðnir hugfangnir af jarðyrkjunni.

Eins og kunnugt er, er Alberta-fylkið einkar vel lagað til kvikfjárræktar og valda því hinir stuttu og mildu vetrar. Íslendingum hefir líka reynst atvinnuvegur sá heillavænlegur og arðsamur.

Á svæði því í Alberta, sem Íslendingar eru búsettir á, er alt heimilisréttarland nú upptekið og mikill hluti járnbrautar- og Húdsonsflóafélags-landsins keypt. En eigi að síður er óskopin öll af heimilisréttarlandi ónumið innan takmarka Alberta-fylkis, sem hefir fullkomlega eins mikið til síns ágætis eins og land það, sem numið hefir verið.

Þeim, sem línur þessar ritar, kemur ekki til hugar að ausa yfir norðvesturlandið í Vestur-Canada neinu oflofi. Ekki heldur hefir hann allra minstu tilhneigingu til að örfa fólksflutning frá Íslandi.

En Íslendingar, sem vestur um haf eru fluttir og ekki hafa enn þá fært sér hinn mikilsverða heimilisrétt sinn í nyt, þeir ættu nú vissulega að vinda bráðan bug að því að tryggja sér góða bújörð og framtíðarheimili fyrir sig og sína. Innflutningurinn til Vestur-Canada eykst með ári hverju, frá nálega sagt öllum löndum heimsins, og þess getur því ekki orðið sérlega langt að bíða, að tækifærið til að ná í gefins stjórnarland minkar og hverfur með öllu.

Það er því að minni hyggju orð í tíma talað til yðar, landar góðir, sunnan landamæranna, og hvar annars staðar sem er:



Búpeningur á íslenzkum bóndabæ.

Þér, sem enn ekki hafið notað landtökurétt yðar í Vestur-Canada, bregðið við sem fyrst. Dragið það ekki þangað til orðið er um seinan.

*C. Christinnson.*

---

Sólheima, Alberta,
í Ágústmánuði 1907.

Kæru landar mínir heima á Íslandi:—

Eg hefi verið beðinn að gefa skriflegt álit mitt á lífinu hérna í Vestur-Canada og hvort eg sé því samþykkur, að heppilegt sé fyrir fólk vort á Íslandi að flytja hingað vestur um haf.

Eg hefi dvalið hér í landi í 20 ár og er því búinn að fá nokkra reynslu á lífinu í Canada.

Eg var 25 ára gamall þegar eg flutti vestur frá Íslandi—úr einhverri beztu sveitinni á Suðurlandi: Laugardal í Grímsnesi í Árnessýslu.

Sveitin mín á Íslandi er fögur og, að mörgu leyti, góð sveit. En mér fanst stöðugt á meðan eg var heima, og finst það enn, búskapurinn þar í sveitinni, eins og víða annars staðar, vera í mesta ólagi, framfarir litlar og margoft engar þótt margir gerðu sér það, fram yfir allar vonir, að góðu, — að líkindum af því, að menn þektu ekki annað betra.

Sumir minna beztu vina vildu að eg færi að byrja búskap í sveitinni minni þegar þeir vissu, að eg hafði hugsað mér að flytja til Ameríku. En mér fanst það ekkert girnilegt, meðfram vegna þess eg hafði séð svo dauflег afdrif margra, sem byrjað höfðu búskap á uppvaxtarárum mínum.

En eg hafði fengið óljósar fregnir frá Ameríku um, að þar væri framfarir miklar og meiri möguleikar til að

lifa sjálfstæðu lífi, meiri arður af daglegri vinnu og gefins land ef maður æskti þess. Og er það óneitanlega mun betra að vera hér sjálfseignarbóndi, þó ekki sé nema á 160 ekrum af góðu, úrgangslausu landi, eins og það er hér í flestum tilfellum, heldur en að vera leiguliði á fjölda mörgum lélegri jörðunum heima.

Eg réði það því af að flytja til Vesturheims og yfirgaf sveitina mína fögru með háu himingnæfandi fjöllin, fögru birkivöxnu hlíðarnar, silfurtæru árnar og lækina, silungsvötnin og fögur tún og engi, og svo að sjálfsögðu að slita mig frá skyldfólkinu öllu og vinunum, sem undir atvikum er komið hvort maður fær nokkurn tíma aftur að sjá eða ekki.

Þrátt fyrir alt þetta hefi eg aldrei iðrast þess, að eg flutti hingað vestur, og þykist eg nú, eftir tuttugu ára veru hér í landi þessu, hafa fulla reynslu fyrir því, að hér sé betra að vera þegar tillit er til alls tekið, heldur en á Íslandi.

Þetta segi eg vegna þess mér finst það vera sögulegur sannleikur, en ekki af því, að eg vilji á neinn hátt níða landið, sem eg er fæddur og uppalinn á, eða gera lítið úr því um skör fram.

Af því, sem eg hefi séð og heyrt viðvíkjandi löndum mínum hér í landi þessu, dreg eg þá ályktan og tel óefað, að vesturflutningurinn hafi orðið þeim til stórmikils, næstum ómetanlegs hagnaðar, í langflestum tilfellum, og, það sem mest er í varið, Íslandi sjálfu hefir orðið fólksflutningurinn hingað vestur mesta happ, sem nokkurn tíma hefir hent vort kæra föðurland, bæði beinlínis og óbeinlínis; og eg vona, að það ekki einasta haldist framvegis, heldur verði meira og meira eftir því sem tímarnir líða.

Hér í nýja fylkinu okkar, Alberta, er enn þá mikið

af óteknu heimilisréttarlandi, en þið svo margir landlausir heima á Íslandi að kúgast við að greiða þar landskuldir og leigur og það oft og tíðum af lélegum jörðum, sem tæplega eru þess virði, að á þeim sé búið án meiri jarðabóta en leiguliðum er í flestum tilfellum vaxið að gera.

Þá álít eg heppilegra fyrir menn að koma hingað vestur og nema hér land heldur en að ala aldur sinn við fátækt og allsleysi heima á Íslandi. En þó ættu að eins þeir að koma, sem duglegir eru og reglusamir og búast við því fyrirfram að verða að vinna þegar hingað kemur. Hinir, sem ekki eru gefnir fyrir vinnu, ekki vilja leggja á sig erfiða vinnu eða eru stirðir til verks, ættu að sitja kyrrir heima þar sem þeir eru uppaldir. Bezt er einnig þeim, sem vel vegnar á Íslandi, að fara hvergi.

Þá er ekki síður álitlegt fyrir stúlkur að koma hingað vestur. Hér er ætíð mikil eftirspurn eftir vinnukonum til hjálpar við innanhússtörf, og gott kaup borgað.

Landið er nú óðum að byggjast af, má heita, allra þjóða fólki og það mest frá beztu löndum heimsins, svo sem Bandaríkjunum, Englandi, Skotlandi, Írlandi, Þýzkalandi, Ítalíu, Norvegi, Svíþjóð, Danmörku o. s. frv., og virðist fólk þetta alls ekki hræðast það að gera Vestur-Canada að framtíðarlandi sínu.

Ósegjanlega miklu aðgengilegra er það nú fyrir Íslendinga að flytja hingað vestur heldur en var fyrir 25 til 30 árum síðan.

Þegar hingað kemur frá Íslandi finna menn nú alls staðar Íslendinga, sem boðnir og búnir eru til þess að leiðbeina löndum sínum. Og svo er annað, sem miklu skiftir: Íslendingar hér hafa áunnið sér góðan orðstír og mikið álit í landinu, álitnir nú jafn æskilegir

innflytjendur og borgarar eins og nokkurrar annarrar þjóðar fólk. Það er því öðru nær en íslenzkir innflytjendur þurfi að óttast, að þeim verði hér illa tekið eða til þeirra verði litið sem miður æskilegra útlendinga þegar þeir stíga hér á land.

Eitt er það, sem mér þætti sérlega vænt um, það er, að landar okkar, sem lengi hafa dvalið hér í landi, búnir eru að ná praktiskri verklegri þekkingu og hafa peningaráð svo til muna sé, — að þeir bregði sér heim til gamla landsins okkar og beiti þar kröftum sínum og þekkingu um lengri eða skemmri tíma. Þó þeir, sem að heiman flytja, yrði miklu fleiri heldur en hinir, sem heim færi, þá mundi Ísland stórum græða á skiftunum og landar mínir þar þá fyrst fyrir alvöru á því þreifa hverja þýðing vesturflutningarnir hafa fyrir Ísland.

Eg enda svo línur þessar með kærri kveðju til landa minna heima á Íslandi, og óska þeim allrar lukku og blessunar, hvort heldur þeir verja lífi sínu heima á ættjörðinni eða þeir flytja hingað vestur í hið mikla framtíðarinnar og vonarinnar land — Canada.

*Ófeigur Sigurðsson.*

---

Tindastóll, Alberta,
í Ágústmánuði 1907.

Eftir tilmælum rita eg línur þessar um bygðina hér, sem eg hefi nú búið í 19 ár og 3 mánuði betur.

*Náttúrufegurð.*

Fegurð náttúrunnar hér hefir ætíð verið við brugðið. Sléttar grundir, þar sem akrar og engi blasa við auganu, kornstöngin og störin, blómin, smá-trjátoppar, sem hneigja kollinn í hlýjum morgunblænum eins og

til að bjóða manni góðan daginn; hraðar hneigir kornstöngin sitt þunga höfuð, svo nú er yfir landið að líta sem bylgjur á sjó. Fjær blasa við börð og hólar, fell og hæðir; en yzt í vesturátt Klettafjöllin hrikavöxnu með strýturnar snjóhvítar upp í loftið eins og ísjaka í hafinu, alt útskorið skörðum, dölum og dældum. Þaðan streymir jökulvatnið blöndulita, sem flestir kannast svo undur vel við á Íslandi.

*Loftslag.*

Eitthvert heilnæmasta loftslag, sem hugsast getur, er fjallaloftið hreina og tæra. Lungnasjúkdómar eru hér óþektir Hingað koma margir tæringarveikir sér til heilsubótar og fá oft bót meina sinna. Hitar hér aldrei tilfinnnanlegir á sumrum. Oft kalt á vetrum — eftir því, sem frostmælirinn segir—, en þó aldrei tilfinnanlega kalt til lengdar.

*Griparækt.*

Fyrst framan af héldu margir því fram, að land þetta væri aðallega hæft til sauðfjár, nautgripa og hestaræktar, en til þess væri það líka heimsins bezta land. Það fylgdi ætíð sögunni. Grastegundir hér margbreyttar og næringarefnin frábærlega góð til holda og mjólkur. Vatnið hreina og tæra úr uppsprettulindunum eða lækjunum eða smá-ánum, og þá jökulvatn stórfljótanna. Alt þetta var jafnvægi gulls á þeirra tungu og er mikill sannleikur í því fólginn.

*Jarðrækt.*

Tímarnir breytast og mennirnir með. Nú er þetta bygðarlag talið í röð frjósömustu kornyrkjulanda, einkum fyrir hausthveiti og hafra, uppskerumagnið svo mikið, að undravert er; algeng þyngd góðra hafra 45

til 47 pund hvert bushel, og hveiti 62 til 66 pund. Er það meiri þyngd hveitis en eg hefi séð í Dakota eða Manitoba, þar sem þó eru annáluð hveitiræktarlönd og hafa verið og eru enn þá forðabúr heimsmarkaðarins. Hér eru kartöflur bragðbetri en á nokkrum öðrum stað, þar sem eg hefi verið síðan eg fór frá Íslandi, og þrífast mæta vel. Sama er að segja um kálmeti alt. Hyggja mín er, að með tímanum beri land þetta af öllum öðrum hveitilöndum heimsins að gæðum og heilnæmi, auðlegð og afurðum.

*Stjórnmál.*

Stjórnmálasögu vesturlandsins er eg gagnkunnugur og hefi töluvert fengist við undirbúning til kosninga síðastliðin 16 ár, og skal þess hér getið, að allan þann tíma hefi eg fylgt lágtollastefnu frjálslynda flokksins að málum. Lengi vel vorum við hjáleiga, eins og kotkarlar voru forðum daga kring um höfuðból. Nú er Alberta komin í tölu fylkjanna: að eins tveggja ára telpuhnokki að vísu, en frábærlega þroskamikil og fögur og það svo, að gjörvallur heimurinn hefir nú augastað á henni, og ekki þá sízt á höfuðbólinu Edmonton, sem nú er áfangastaður fjöldans, frá sonum og dætrum karls og kerlingar til kóngs og drotningar. Nýja fylkisstjórnin hefir lagt kapp á að vera þjóðeignastjórn, er keppir að því takmarki að koma kolanámum, steinolíunámum, talþráðum, smjörgerðarhúsum og fleira undir þjóðstjórn: láta það alt vera eign fylkisins, en ekki komast í hendur einstaklinga eða auðfélaga. Gott eftirlit hefir stjórnin einnig með kenslumálum og nauðsynlegum umbótum. Hún sér um brúagerð yfir stórfljótin, smá-árnar og lækina; ruðningur akvega er einnig undir umsjón hennar, en þó aðallega í höndum bænda,



Tjörn utan við Swan River-bæinn i Manitoba.



Búpeningur hjá íslenzkum bónda.

Hún styður að því, að landið verði eign bænda, en ekki auðfélaga.

Að tilhlutun stjórnarinnar hafa stórfljótin verið mæld og lausleg áætlun verið gerð um kostnaðinn við að gera þau skipgeng. Árangurinn af starfi því er sá, að nú í sumar (1907) er byrjað að hreinsa flúðir og hlaða stíflugarða, þótt í smáum stíl sé, til þess að stytta landnemanum leið norður í hið frjósama Peace River hérað. Þar er loftslag á sumrin svipað og hér, en oft snjóléttara með vestan þíðvindum á vetrum. Klettafjöllin þar lægri en hér og hafátt Kyrrahafsins nýtur sín þar þess vegna betur. Síðustu manntalsskýrslur sýndu um tíu þúsund hvítra manna í héraði þessu, og hefir tala þeirra vafalaust aukist stórum síðan. Menn þar eiga mánaðarleið til markaðs eftir ám og vötnum—til Edmonton. Þeir stunda fisk- og dýraveiðar. Þar eru fisksælustu og stærstu veiðivötn í Vestur-Canada. Nautgripa og hestahjarðir hafa margir þar í stórum stíl, en aðrir stunda jarðrækt, sem þar gefst vel. Hveitimylnur eru þar og hafa verið til margra ára. Héraðið er í uppgangi miklum og verða lagðar járnbrautir þangað innan skamms.

*Íslendingar*

eru fáir í Alberta. Manitoba og Saskatchewan fylkin draga þá nær því alla til sín og eru þar víða stórar og blómlegar Íslendinga-bygðir.

Alberta-fylkið liggur á 49. br.st. að sunnan og nær norður á 60. Norðurlínan er því nálægt 50 danskar mílur fyrir sunnan syðsta tanga Íslands. Að sunnanverðu liggur Alberta frá 110. til 119. l.st., en að norðanverðu frá 110. til 122. l.st. Eins og kunnugt er liggur fylkið meðfram Klettafjöllunum að austan. Í suður-

hlutanum er vetrarríki lítið, vinda og hlákusamt og útigangur hinn bezti. Þar eru búsettir nokkrir Íslendingar á stangli hér og þar. Þar er sykurgerðarverkstæði og hveitirækt góð og stærstar nauta og hestahjarðir í Canada.

Þegar norðar dregur, verður vetrarríkið meira; þó koma oft vetrar góðir og snjólitlir sérstaklega þegar stöðugir vestanvindar eru og hafátt.

Á 52. norðurbreiddarstigi erum við Íslendingar, sem búum í hinni svo nefndu Alberta-nýlendu (sem nú er oftast nefnd Red Deer-nýlendan), en á 114. stigi v.l. Bygð þessi er nú á 20. árinu.

Fyrst framan af stunduðum við aðallega fiskveiðar og nautgripa og sauðfjárrækt í smáum stíl, áttum hesta til brúkunar að eins, nokkra alifugla og svín. Þá var algeng fæða: fiskur, skyr, kjöt, kartöflur, en lítið um haframjöl, hveitimjöl eða brauðgerð, því það urðum við að sækja svo langt að—vorum venjulega tíu daga í kaupstaðarferðinni til Calgary. Kaffi, tóbak og brennivín sást af mjög skornum skamti í þá daga. Var þá algengast að fá skyr og rjóma, súrsuð svið og hangikjöt með nýjum eða hörðum fiski til góðgerða, en ekki kaffi og kaffibrauð eins og nú tíðkast

Síðan járnbrautin kom í nágrennið hafa risið upp kaupstaðir að heita má á annarri hverri þúfu—jafnvel hér og þar út frá járnbrautinni. Nú er líka munaðarvaran notuð óhóflega mikið, kaffiaustur daginn út og daginn inn árið um kring.

*Búskapurinn.*

Þegar eg ber landann saman við Þjóðverjann, Írann, Skotann og Bandaríkjamanninn, þá finst mér landinn búslóði einkum við jarðræktina. Í félagslífinu

stendur hann þeim framar. Við höfum betri barnauppfræðslu og skóla. Svo að segja öll verzlun bygðarinnar er í okkar höndum. Smjörgerðarhús og vandað samkomuhús eigum við og kirkjan okkar þolir vel samanburð við kirkjurnar hinar.

Hér er búskaparlagið að breytast, landar farnir að gefa sig meira við jarðræktinni. Það þykir smábóndi nú, sem ekki hefir 50 til 100 ekrur í akri. Kúabú hafa þeir átt öllum betri, í smjörgerð eru þeir langt á undan öðrum, og skuldlausir mega þeir heita í samanburði við aðra þjóðflokka. Flestir eldri bændur eiga 60 til 130 nautgripi, sárfáir sauðfé, nokkrir talsvert af svínum, flestir tvö lönd (320 ekrur), fáeinir þrjú lönd (480 ekrur). Í Íslendinga-bygðinni hefir myndast smábær, sem Markerville heitir, eru þar tvær íslenzkar verzlanir, ein íslenzk aktýgjabúð, íslenzkur kjötmarkaður, íslenzkt samkomuhús og íslenzk kirkja — hvortveggja rúmgott og vandað. Hér er íslenzkur prestur, sem í mínu ungdæmi hefði þótt góður ræðumaður og fyrirtaks barnakennari.

Um mig vil eg vera sem fáorðastur. Mér finst eg ekki hafa verið til annars skapaður en að afla og eyða, láta alt verða að engu í samanburði við það, sem hefði mátt verða. Eg á tvö lönd, 64 nautgripi, 36 sauðkindur, 5 hross og nálægt 100 alifugla.

### *Fólksflutningur frá Íslandi.*

Vesturflutningur Íslendinga ætti að halda áfram á meðan landnámstíðin stendur yfir hér í Vestur-Canada. Það ber hundraðfaldan ávöxt fyrir Ísland. Vestur-Íslendingar — niðjar vorir — byggja ekki kneri sína í skógi, eins og Unnur hin djúpauðga, til að komast heim til Íslands aftur, heldur taka þeir sér far með *"Hinu*

*sameinaða gufuskipafélagi Austur- og Vestur-Íslendinga"* með alla búslóð sína: vélar, hesta, kynbótanautgripi o. s. frv., og á þann hátt flytja þeir austur um haf akra vora og skóga. Þá verður íslenzkur *emigranta agent* í höfuðstað Vestur-Canada að smala *emigröntum* heim til ættjarðarinnar. Þá koma stúdentar frá Íslandi hundruðum saman árlega til þess að fullkomna nám sitt á vestur-íslenzka háskólanum í Winnipeg. Þá flytja Íslendingar sjálfir mjöl og malt og allan verzlunarvarning frá Winnipeg, og öðrum stöðum í Vestur-Canada, eftir skipaskurðum, ám og vötnum, og eftir Húdsonsflóanum, beina leið frá fyrstu hendi, á þeirra eigin skipum, til Íslands.

Þetta gera bændurnir á Íslandi einhverntíma seint á tuttugustu öldinni. Það er bara, að sagan endurtekur sig:

"Skrautbúin skip fyrir landi,
færandi varninginn heim."

Þá sér Fjallkonan forna og viðurkennir, að vesturflútningarnir bera hundraðfaldan ávöxt.

*Jóhann Björnsson,*
(frá Grímsstöðum).

---

Edmonton, Alberta,
9. Ágúst 1907.

Eg vil nú láta verða af því, sem eg lofaði, að segja eitthvað um íslenzku bygðina í Alberta, er eg bjó í áður en eg kom hingað.

Eg kom alfarinn til bygðarinnar 9. Júlí 1890. Hafði eg skroppið þangað snögga ferð áður, skömmu eftir að eg flutti mig frá Dakota til Calgary. Mér leizt undir eins vel á mig á þessum stöðvum; þótti þar

björgulegt útlits þó bygð væri þar lítil. Þar voru þá að eins búsettir fáeinir Íslendingar, sem komið höfðu þangað árið áður. Allir eða flestir frá Dakota.

Eg valdi mér land norðarlega í bygðinni, langt frá mannabygðum. Flestir hinir Íslendingarnir höfðu tekið sér bólfestu með fram Medicine ánni, ekki langt, til þess að gera, fyrir ofan þar sem hún rennur í Red Deer ána. — En bygðin var um hundrað mílur norður af Calgary, og varð maður að fara vegalengd þá keyrandi, því C. P. R. félagið hafði þá ekki lagt aukabraut sína frá Calgary til Edmonton.

Eg settist að svona norðarlega í bygðinni, því þar þótti mér fallegast. Eg valdi mér hússtæði á háum hól þar útsýni var gott. Sérstaklega þótti mér vænt um hve vel Klettafjöllin sáust þaðan, þótt þau væri í rúmri hundrað mílna fjarlægð. Ólík voru þau samt íslenzku fjallafegurðinni, en mint gátu þau mann á hana.

Fyrsta sprettinn eftir að við komum í bygðina urðum við að búa í tjaldi. En ekki leið á mjög löngu áður en eg gat bygt húskofa yfir höfuð okkar. Um haustið hafði eg samt bygt ögn betra og vandaðra íveruhús og þar að auki fjós, og heyjað nóg handa skepnum mínum. Eg flutti með mér eitt akneyti (uxa) og tvær kýr. Mestar voru það nú eignirnar, — ójú, Neró keisara átti eg líka, hund, tryggan og fylgispakan.

Hagur Íslendinga í bygðinni um þessar mundir var eins og annarra íslenzkra frumbýlinga lands þessa. Þeir áttu við örðug kjör að búa fyrstu árin. Höfðu allir komið í bygðina bláfátækir, og urðu því að treysta möguleikunum, sem þar gáfust, til að veita sér bjargræði. Fiskurinn í Medicine-ánni reyndist hin mesta blessun fyrir bygðarbúa, þó eg hefði lítið af honum að segja. En stöðuvatn var norður af bygðinni—á að

gizka tíu mílur—og var það um þær mundir fult af fiski. Þangað sótti eg veiðar ásamt mörgum öðrum Íslendingum.

Þó Íslendingar nú í bygðinni séu flestir all-góðum efnum búnir, þá hafa þeir ekki gengið með neinum risaskrefum á framfarabrautinni. Þeir hafa mjakast áfram hægt og hægt. Það var svo erfitt að hefja gönguna, og þeir áttu þá ekki kost á ýmsum hlunnindum, sem nú bjóðast innflytjendum. En bygðin reyndist öllum vel. Ekki er annað hægt að segja. Griparæktarpláss var ekki hægt að fá betra, því beitiland var þar ágætt og engjar nægar. Skepnur bænda voru ekki margar til að byrja með, en með því að sæta allri útivinnu, sem þeir gátu, fengu þeir smátt og smátt fjölgað þeim og komið fyrir sig stofni. Inntektirnar voru oft ekki miklar, en útgjöldin voru líka lítil, því sparsemi er aðal-einkenni allra duglegra og hugsandi frumbýlinga. Það útheimtir líka þolinmæði og þrek til að koma sér á laggirnar, en það er sælt að sveitast og sigra.

Þó Íslendingar ættu við mikla örðugleika að stríða í fyrstu, var breyting til batnaðar í nánd. Fleiri og fleiri fluttu inn í bygðina, og dálítill sveitarbragur tók smátt og smátt að færast yfir hana. Allir sáu möguleikana til að hafa sig þarna áfram og vildu nota sér þá sem bezt. Löngun til að mynda félagsskap tók að gera vart við sig í ýmsum myndum hjá bygðarbúum. En þetta er aðal-skilyrði allrar sannrar velferðar í hvaða sveit sem er. Svo ekki leið á löngu áður lestrarfélag væri myndað til viðhalds andlegs lífs bygðarbúa. Kvenfélag var einnig myndað, sem leiddi af sér talsvert andlegt fjör í bygðinni. Skólahéruð voru líka mynduð og kenslu komið á fót fyrir æskulýðinn. Alt þetta stuðlaði



til þess að efla ánægju manna og auka virðingu þeirra fyrir bygð sinni.

Þegar kýr bænda fjölguðu, fundu þeir, að ekki borgaði sig að búa til smjör alt í heimahúsum eins og gert hafði verið. Fyrir áhrif ensks manns nokkurs var hlutafélag myndað og smjörgerðarverkstæði (creamery) stofnað. Sú tilraun mishepnaðist samt algerlega, en hafði þó vekjandi áhrif, því næsta tilraun bænda í sömu átt hepnaðist vel. Þá var smjörgerðarverkstæði stofnað með tilstyrk stjórnarinnar eða með sama fyrirkomulagi og önnur slík fyrirtæki norðvesturlandsins, því griparæktin hefir hingað til verið aðal-atvinnuvegur Íslendinga þar í bygðinni.

Það, sem eg syrgi mest, er, að eg kom ekki til þessa lands ungur. Möguleikarnir hér til að hafa sig áfram eru svo margir. Vinna manna hér er ekki arðlaus; hún getur gert mann að vel sjálfstæðum manni efnalega, og um leið að góðum borgara einhvers mesta framfaralands heimsins.

Þó heimilisréttarlönd séu nú upptekin í þessari bygð, sem eg hefi hér talað um, þá er enginn vafi á því, að önnur nýlendusvæði eru til í Alberta engu síður hentug til búskapar, bara ef einhverjir vildu brjóta ísinn og flytja þangað.

*Jón Pétursson,*
(frá Kolgröf í Skagafirði).

# Canada norðvesturlandið.

---

### Reglur við landtöku.

Af öllum sectionum með jafnri tölu, sem tilheyra sambandsstjórninni, í Manitoba, Saskatchewan og Alberta, nema 8 og 26, geta fjölskylduhöfuð og karlmenn 18 ára gamlir eða eldri, tekið sér 160 ekrur fyrir heimilisréttarland, það er að segja, sé landið ekki áður tekið, eða sett til síðu af stjórninni til viðartekju eða einhvers annars.

### Innritun.

Menn verða sjálfir að skrifa sig fyrir landinu á landtökuskrifstofu héraðsins, sem það er í. Hið venjulega innritunargjald er $10.

### Heimilisréttar-skyldur.

Samkvæmt núgildandi lögum verða landnemar að uppfylla heimilisréttar-skyldur sínar á einhvern af þeim vegum, sem fram eru teknir í eftirfylgjandi töluliðum, nefnilega:

[1] Að búa á landinu og yrkja það að minsta kosti sex mánuði á hverju ári í þrjú ár.

[2] Ef faðir (eða móðir, ef faðirinn er látinn) einhverrar persónu, sem hefir rétt til að skrifa sig fyrir heimilisréttarlandi, býr á bújörð í nágrenni við landið,

sem slík persóna hefir skrifað sig fyrir sem heimilisréttarlandi, þá getur persónan fullnægt fyrirmælum laganna, að því er ábúð á landinu snertir áður en afsalsbréf er veitt fyrir því, á þann hátt að hafa heimili hjá föður sínum eða móður.

[3] Ef landnemi hefir fengið afsalsbréf fyrir fyrri heimilisréttar-bújörð sinni, eða skírteini fyrir að afsalsbréfið verði gefið út, er sé undirritað í samræmi við fyrirmæli Dominion landlaganna, og hefir skrifað sig fyrir síðari heimilisréttar-bújörð, þá getur hann fullnægt fyrirmælum laganna, að því er snertir ábúð á landinu (síðari heimilisréttar-bújörðinni) áður en afsalsbréf sé gefið út, á þann hátt að búa á fyrri heimilisréttar-bújörðinni, ef síðari heimilisréttar-bújörðin er í nánd við fyrri heimilisréttar-jörðina.

[4] Ef landneminn býr að staðaldri á bújörð, sem hann á (hefir keypt, tekið í erfðir o. s .frv.) í nánd við heimilisréttarland það, er hann hefir skrifað sig fyrir, þá getur hann fullnægt fyrirmælum laganna, að því er ábúð á heimilisréttar-jörðinni snertir, á þann hátt að búa á téðri eignarjörð sinni (keyptu landi o. s. frv.)

### Beiðni um eignarbréf

ætti að vera gerð strax eftir að 3 árin eru liðin, annaðhvort hjá næsta umboðsmanni eða hjá *Inspector* sem sendur er til þess að skoða hvað unnið hefir verið á landinu. Sex mánuðum áður verður maður þó að hafa kunngert Dominion landa umboðsmanninum í Ottawa það, að hann ætli sér að biðja um eignarréttinn.

### Leiðbeiningar.

Nýkomnir innflytjendur fá á innflytjenda-skrifstofunni í Winnipeg, og á öllum Dominion landa skrif-

stofum innan Manitoba, Saskatchewan og Alberta leiðbeiningar um það hvar lönd eru ótekin, og allir, sem á þessum skrifstofum vinna, veita innflytjendum, kostnaðarlaust, leiðbeiningar og hjálp til þess að ná í lönd sem þeim eru geðfeld; enn fremur allar upplýsingar viðvíkjandi timbur, kola og námalögum. Allar slíkar reglugjörðir geta menn fengið þar gefins, einnig geta menn fengið reglugjorðina um stjórnarlönd innan járnbrautarbeltisins í British Columbia, með því að snúa sér bréflega til ritara innanríkisdeildarinnar í Ottawa, innflytjenda umboðsmannsins í Winnipeg; eða til einhverra af Dominion landa umboðsmönnum í Manitoba, Saskatchewan og Alberta.



# TOBA, SASKATCHEWAN AND ALBERTA

## SHOWING THE DOMINION LAND DISTRICTS





ALBERTA
SASKATCHEWAN
EDMONTON
BATTLEFORD
PRINCE ALBERT
RED DEER
CALGARY
LETHBRIDGE
ASSINIBOIA
YORKTON
ALAMEDA
REGINA
SASKATOON
MEDICINE HAT
LLOYDMINSTER
STRATHCONA
FOURTH MERIDIAN
THIRD MERIDIAN
FIFTH MERIDIAN
CANADIAN PACIFIC RAILWAY
GRAND TRUNK PACIFIC
CANADIAN
114
113
112
111
110
109
108
107
106
105
104
103
53
52
51
50
49

Landabréfið sýnir Vestur Canada. Rauðu krossarnir tákna Íslendingabygðirnar og þá aðra staði, utan Winnipeg bæjar, þar sem Íslendingar hafa tekið sér bólfestu.